


# Hagskýrslur

frá

# Íslendingabyggðum í Canada

**árin 1891—1892.**

Safnað hefir

B. L. Baldwinson.



**Reykjavík.**

Prentaðar í Ísafoldarprentsmiðju

1892.

Það eru nú liðin nærri 17 ár frá því, er Íslendingar fyrst tóku sjer bólfestu í Manitoba Fæstir þeirra koma með mikla peninga frá ættlandi sínu. Það ganga því að jafnaði 2—3 ár til að reyta saman svo mikla peninga fyrir daglaunavinnu, að mögulegt sje að nema land og reisa bú, enda þótt í smáum stíl sje. Þetta átti sjer, að sjálfsögðu, stað miklu fremur fyrstu árin á meðan allir voru jafnir og enginn gat miðlað, heldur en nú, þar sem aðkomumaðurinn á ættingja eða vin, viljugan til og megnugan um að miðla, í hverja helzt íslenzku byggðina sem hann flytur. Auk fátæktarinnar stóð og sundrungin búskapnum fyrir þrifum fyrstu 5—6 árin. Að sundrunginni og þar af leiðandi burtflutningi úr Nýja-Íslandi, einu nýlendunni á þeim árum, kvað svo mikið, að nýlendan því nær lagðist í eyði. Þrátt fyrir þetta andstreymi fyrst framan af hefur fjárhagsleg framför Íslendinga í Manitoba og öðrum hjeruðum í Vestur-Canada verið mikil, miklu meiri en nokkurt jafnfólksmargt hjerað á Íslandi getur sýnt á sama tímabili.

Það hefur allt til þessa verið dreginn efi á það á Íslandi, að efnahagur landsmanna þeirra hjer í nýlendunum sje eins góður og hann í raun og veru er. Á hinn bóginn hefur enginn efi verið dreginn á það, að nýbyggjara örðugleikarnir sjeu miklir, eins og þeir líka óneitanlega eru, einkum þegar nærri efnalaus maður er að byrja búskap.

Til þess nú að rannsaka ýtarlega, hvernig efnahagur íslenzkra nýbyggjara í hinum ýmsu nýlendum er, tókst umsjónarmaður íslenzkra innflytjenda, herra B. L. Baldwinson, á hendur að ferðast um nýlendurnar, heimsækja hvern einstakan landnema, yfirlíta eignir hans og fá virðingarverð þeirra, upphæð skuldanna, er landneminn kynni að vera í, og færa allt saman í greinilega skýrslu. Þessar skýrslur eru prentaðar í þessum bæklingi, og ástæðan til að hann er gefinn út, er einmitt sú, að sýna þessar fróðlegu búnaðarskýrslur allar á einum stað. Jafnframt sýnist ekki illa til fallið, að draga saman í stutt mál hin helztu atriði, er snerta stærð og afstöðu Canadaríkis, fylkjaskipting, lýsing landsins o. þ. h.

**Afstaða og stærð.** Canada-veldi (Dominion of Canada) innilykur allan norðurhluta Norður-Ameríku, að undantekinni norðvesturhyrnu landsins vestan Klettafjalla, Alaska-skaganum, sem er eign Bandaríkja. Flatarmál ríkisins er enn ekki nákvæmlega mælt, þar allmikið svæði á norðurjaðrinum er enn ekki nema lítið kannað, en samkvæmt síðustu áætlun er stærð þess 3,470,257 ferhyrningsmílur[1]. Mest lengd ríkisins, frá austri til vesturs, er um 3,200 mílur, og mest breidd þess, frá norðri til suðurs, um 2,000 mílur. Landamerki ríkisins að sunnan liggja eptir 49. norðurbreiddarstigi frá Kyrrahafi austur að Skógavatni, suðaustast í Manitoba fylki, en þaðan í krókum eptir ám (Rainy og Pigeon Rivers) til Superior-vatns. Þaðan liggur landamerkjalínan eptir stórvötnunum og austur um Lawrence-fljót að 45. n. br. stigi og eptir því mælistigi austur á Grænufjöll (Green Mountains). Eptir þeim fjallshrygg liggur svo línan norðaustur og austur, og er þeim sleppir austur um land í krókum eptir smá-ám, og að síðustu beint í suður eptir smá-á þeirri er Krossá (St. Croix) heitir til sjávar, nálægt 45. stigi norðurbreiddar. Landamerkin að norðvestan, á milli Canada og Alaska, eru óákveðin.

**Fylkjaskipting.** Sem stendur eru 7 fylki í Canada-ríki og mynda þau ríkisheildina, er stofnuð var 1. júlí 1867. Þessi eru fylkin í sambandinu: Prince Edward Island, Nova Scotia, New Brunswick, Quebec, Ontario, Manitoba, British Columbia. Hinir aðrir hlutar ríkisins eru enn of mannfáir til þess að takast algerða sjálfstjórn á herðar, og eru þess vegna undir nánari umsjón hinnar sameinuðu stjórnar ríkisins, sem almennt er kölluð sambandsstjórn. Þrjú hjeruð fyrir vestan Manitoba og austan Klettafjalla hafa nú orðið að miklu leyti sömu ráð og rjettindi og fylkin hafa, og verða innan skamms

---

1) Þar sem mílur eru nefndar í þessum bæklingi, er átt við enskar mílur, þ. e. 880 faðma lengd.

tekin í sambandið sem lögmæt fylki og með fullu sjálfsforræði. Þessi þrjú hjeruð eru: Assiniboia, Alberta, Saskatchewan.

**Stjórnarfyrirkomulag.** Sambandsstjórnin hefur aðal-ból sitt í Ottawa (íbúar 45,000), í Ontario-fylki austarlega og fast við landamerki Quebec-fylkis. Kemur þar saman sambandsþingið á ári hverju. Hvert fylki fyrir sig hefur alger umráð yfir sínum sjerstöku málum, en sambandsstjórnin ræður yfir öllum málum, er snerta ríkið í heild sinni, svo sem peningaútgáfum, póstgöngum, verzlun og samgöngum, fiskiveiðum, vatnsfarvegum, o. fl., svo og glæpamálum og lögum er þar að lúta; hefur og eptirlit með löggjöf fylkjanna og hefur í því efni takmarkað neitunarvald undir vissum kringumstæðum. En þar sem Canada-ríki er eign Breta, þá eru öll lög sambandsþingsins háð neitunarvaldi brezku stjórnarinnar, en svo er til skilið, að engin lög þess, er snerta Canada-ríki eitt, eða þess sjerstöku mál, skuli numin úr gildi. Til neitunarvaldsins kemur að eins, ef lögin stríða gegn stjórnarskránni á einn eða annan veg. Þó Canada-ríki sje eign Englendinga, geldur það ekki eins eyrisvirði í sjóð Breta, tekur engan þátt í þeirra kjörum eða þeirra málum og er alls engum skyldum bundið í því efni. Eignarrjettur Breta sýnir sig aðal-lega með *þrennu* móti:

1. Þeir semja jafnframt Canadamönnum við erlendar þjóðir, og staðfesta alla slíka samninga, þótt þeir samningar sjeu gerðir fyrir Canada-ríki sjerstaklega.

2. Þeir skipa landstjóra í Canada, en landstjóri er áhrifalaus í landsmálum, en verður að hlýða skipunum stjórnarráðsins, er í það og það skiptið situr að völdum.

3. Öll lög, hvort heldur á sambandsþingi eða fylkisþingum, eru samin og staðfest í nafni og umboði Englands drottningar.

Fylkisstjórana skipar stjórnarráð sambandsstjórnar, svo og alla embættismenn sambandsstjórnar, en fylkisstjórnirnar skipa alla embættismenn fylkisstjórnanna. Alla hæstarjettar-, yfirrjettar- og hjeraðsdómara skipar og sambandsstjórn, en friðdómara skipa fylkisstjórnirnar.

Sambandsþingið samanstendur af tveimur deildum, fulltrúadeild og »öldunga«-deild' og verða þær báðar að samþykkja öll frumvörp til laga, ella öðlast þau ekki lagagildi. Sambandsþings fulltrúana kýs alþýða til 5 ára þingsetu í mesta lagi (venjulega er kjörtíminn 4 ár eða rúmlega það), en »öldungarnir« eru »konungkjörnir« að nafninu til. Í raun og veru kýs stjórnarráðið þá, og halda þeir þingsætinu æfilangt.

Fylkisþingin samanstanda af tveimur deildum, fulltrúadeild og öldungadeild, í fjórum fylkjunum, í Prince Edward Island, Nova Scotia, New Brunswick og Quebec. Í Ontario, Manitoba og British Columbia samanstanda þau af einni deild einungis, fulltrúadeildinni. Kjörtími fylkisþingmanna er jafnlangur kjörtíma sambandsþingmanna, þ. e. 5 ár í mesta lagi.

Kosningarrjett við sambandsþingkosningar hafa allir, sem lögaldra eru (21 árs gamlir), sem þegnskyldueið hafa unnið, sem hafa óflekkað mannorð, og sem innvinna sjer minnst 300 doll. á ári. Kosningarrjettur við fylkisþingkosningar er ekki alls staðar eins, en yfir höfuð sem næst því að allir lögaldra menn með óskertu ráði og mannorði hafi atkvæðisrjett. Í Manitoba hafa allir slíkir kosningarrjett, en hermenn, sem launaðir eru, og allir embættismenn og skrifstofuþjónar sambandsstjórnarinnar, sem hafa yfir 300 doll. laun um árið, eru sviptir atkvæðisrjetti við fylkisþingkosningar. Kjörgengir, hvort heldur á sambandsþing eða fylkisþing, eru allir lögaldra menn, svo framarlega sem þeir eru brezkir þegnar og hafa óflekkað mannorð.

**Austur-fylkin.** Sá hluti ríkisins, er liggur fyrir austan Manitoba, er almennt nefndur austurfylkin, þegar talað er um þann hluta ríkisins í heild sinni. Í þeim hlutanum eru öll fylkin í sambandinu, að undanteknum fylkjunum Manitoba og British Columbia. Í þeim fylkjum er elzt byggð, og þar er mestur mannafli og mestur auður samankominn, en samlagt flatarmál þessara fimm fylkja er minna en einn sjöundi af samlögðu flatarmáli ríkisins; er það um 460,000 ferhyrningsmílur. Í austurfylkjunum eru þessir bæir stærstir (tölurnar innan sviga á eptir nöfnunum sýna íbúatalið): Í *Nova Scotia*: Halifax (42,000),

í *New Brunswick*: St. John (40,000), í *Quebec*: Montreal (217,000 og að meðtöldum næstu undirborgunum um 260,000), Quebec (63,000), í *Ontario*: Toronto (188,000), Hamilton (48,000), Ottawa (45,000), London (32,000).

Landslagið í austurfylkjunum er yfir höfuð að tala öldumyndað hálendi með allháum fjallabeltum, hálsum og hæðum hjer og þar, og upprunalega var landið allt skógi vaxið. Á sljettlendinu og í dölunum er jarðvegurinn mjög frjósamur og framleiðir allar tegundir kornmatar og jarðepla, og aldinskógabelti á ýmsri stærð er að sjá á nærri hverju bóndabýli. Málmnámur af ýmsum tegundum eru nálega hvervetna í austurfylkjunum, að undanteknu fylkinu Prince Edward Island (sú eyja er hæðalaus en lítillega öldumynduð lág sljetta skógi vaxin), og kolanámur miklar eru í fylkjunum Nova Scotia og New Brunswick, en ekki annars staðar svo að kveði. Af austurfylkjunum er Ontario auðugast að því er málmnámur snertir. Öræfaklasi sá hinn mikli, um 1,000 mílur frá austri til vesturs, er liggur með fram Huron- og Superior-vötnum að norðan, og vestur frá þeim allt að og lítillega inn yfir landamæri Manitoba fylkis, var til skamms álitin lítilsverð landeign nema fyrir stórskógana, er þekja allt það svæði. En nú er það almennt viðurkennt, að þessi hrikalegi klettabálkur sje eitt hið auðugasta málmland í Ameríku. Helztu málmtegundirnar, sem enn eru fundnar í þessu belti, er enn er ekki líkt því hálf-kannað, eru þessar: gull, silfur, járn, kopar og »nickel«.

**Vestur-Canada.** Svo er í heild sinni almennt nefndur sá hluti ríkisins, er liggur frá austurtakmörkum Manitoba-fylkis vestur að Kyrrahafi, en landamerkjalína fylkisins að austan liggur að miklu leyti frá norðri til suðurs nálægt vesturjaðri öræfaklasa þess er fyrr var getið, og sem þar myndar austurbrún Rauðárdalsins. Hið frjósama sljettlendi í Vestur-Canada tekur þannig við strax á austurjaðri Manitoba-fylkis og liggur þaðan í óslitinni spildu vestur að Klettafjöllum, um 1,000 mílur vegar.

Sljetta þessi hin mikla skiptist í þrjá samhliða liggjandi sljettufláka, og mynda tveir þeirra, hinir vestari, hjalla, er rísa með sýnilegum mun hvor upp af öðrum. Austasti sljettuflákinn er *Rauðárdalurinn* svo kallaði, en sem í raun og veru er ekki annað enn hæðalítil og með köflum mýrkennd lágsljetta. Er hann um 200 mílur á breidd, og meðalhalli hans, bæði austur og vestur frá Rauðá, er um 1 fet á mílunni. Vesturbrún hans mynda sundurlausar hæða-rastir, en framhaldandi hver af annari, frá suðri til norðurs og norð-vesturs, er ganga undir nafninu: Pembina-fjöll (þau eru syðsta hæðaröstin og liggja suður fyrir landamærin, inn í Bandaríkin), Riding Mountains (Reiðarfjöll), Duck Mountains (Andar-fjöll) og Porcupine-fjöll. Frá austurbrún þessara hæða liggur hinn annar sljettuflákinn vestur að Missouri-hæðum og ýmsum hæðabeltum norður-undan, og er um 300 mílur á breidd. Meðalhalli landsins (í austur) á þessu svæði er allt að tveimur fetum á mílunni. Hinn þriðji sljettuflákinn liggur frá austurbrún Missouri-hæða vestur að Klettafjöllum og er nálægt 500 mílna breiður. Austurhalli landsins á þessu svæði er allt að þremur fetum á mílunni.

Auk þeirra hæða, sem hjer hafa verið nafngreindar, eru ótal aðrir, smærri og stærri hæða-klasar dreifðir um hina ýmsu sljettufláka, og yfir höfuð að tala er allt þetta sljettlendi stór-öldumyndað, með hólum, hæðum og all-djúpum dölum hjer og þar. Að undanteknum nokkrum flákum hjer og þar, einkum í Rauðárdalnum, er þess vegna sljettlendi þetta ekki tilbreytingarlaus, marflöt auðn, eins og fjölmargir ímynda sjer. Útsýnið er auðvitað ekki eins svipmikið á sljettunum í Vestur-Canada eins og það er á Íslandi, eða í öðrum fjall-löndum, en tilbreytingin er næg til þess, að augað þreytist ekki. Það hjálpar og til hvað mikið björgulegra er að sjá til beggja handa skiptast á akra og engi, beitilönd með kvikfjárhjörðum, skógarbelti, hóla og hæðir, heldur en svarðrofnu fjöllin, holtin og melana á Íslandi.

Skógarbelti eru með fárra mílna millibili hvervetna á sljettlendinu, að undanteknum einstöku stöðum, þar sem naumast getur heitið að skógur sje til, er einkum á sjer stað á suðurhluta sljettlendisins. Í hæðum og með fram ám og lækjum eru skógarbeltin stærst, trjen stórvöxnust og fjölbreyttastar trjátegundirnar, en yfir höfuð að tala er skóg-

urinn alls-endis ónógur til framtíðar þarfa í öllum suðurhluta sljettlendisins. Aptur á móti er skógur nægilegur til að mæta framtíðarkröfum íbúanna, um mörg ókomin ár, í öllum norðurhluta sljettlendisins. Þetta skógleysi var til skamms tíma álitinn stær[illegible] gallinn á þessum mikla sljettugeim, þar sem veturinn er kaldur og útheimtir mikinn el[illegible] við. Hversu miklir sem landskostir eru í tilliti til bæði kvikfjárræktar og akuryrkju, rýrnar það gildi stórvægilega, ef tilvonandi íbúar landsins ekki geta haldið húsum sínum heitum í vetrargrimdinni, nema með ærnum tilkostnaði. Þessi eða önnur slík umkvörtun er nú kollvörpuð. Náttúran útbjó þennan landshluta með meiri auðæfum en þeim, er frjósamur jarðvegur hefur í sjer fólgin. Meðal þessara auðæfa eru kol. Það er nú þegar búið að finna svo mikið af kolum í Vestur-Canada, austan Klettafjalla (kolanámurnar miklu í British Columbia eru fyrir löngu kunnar), að nægtir eru til að birgja ekki einungis Vestur-Canada, heldur einnig alla Norður-Ameríku með eldsneyti um þúsundir ókominna ára, og þó vantar mikið á að búið sje að kanna alt það svæði, sem víst er að kolalög hefur að geyma, að sögn jarðfræðinga, er um landið hafa farið. Meginhluti kolanna, sem enn eru fundin, eru í Alberta-hjeraðinu; hin eina undantekning er kolanámurnar í suðvestur-Manitoba og suðaustur-Assiniboia. Kolalögin í Alberta eru í stórflákum á 400 til 500 mílna svæði frá norðri til suðurs, og eru aðal-kola-beltin tvö, í samhliða liggjandi röstum. Eystra kolabeltið liggur 150 til 300 mílur austur frá Klettafjöllunum, og eru suðurtakmörk þess nálægt Lethebridge (laust norðan við 50. n. br. stig), þar sem kolatekja hefur verið stunduð í all-stórum stíl um undanfarin 3—4 ár. Vestara kolabeltið liggur víðast hvar fast við rætur Klettafjallanna og upp um dalina austan í fjöllunum. Í eystra beltinu eru kolin linkol (mókol) á ýmsu gæðastigi, en þau lökustu af þeim sögð fyllilega brúkleg til að hita upp hús með þeim. Í vestara beltinu aptur á móti eru meginlega harðkol, er, eptir ýtarlegar rannsóknir efnafræðinga, hafa verið sögð ígildi beztu Pennsylvania-harðkola, en þau eru talin beztu harðkolin sem fáanleg eru í Ameríku. Harðkolatekja í Alberta er enn ekki byrjuð að nokkru ráði, og þess vegna geta menn ekki af eigin reynd dæmt um gæði kolanna.

Auk kolanna hafa ýmsar málmtegundir verið fundnar í Vestur-Canada, ýmist innan takmarka sljettlendisins, eða þá svo nálægt því, að íbúunum kemur það að sömu notum. Þannig eru járn-námur á eyju mikilli í Winnipeg-vatni, örskammt norðaustur undan Mikley í Nýja-Íslandi. Gypsum, Mica og fleiri nytsamar steintegundir hafa fundizt í grennd við Winnipeg, Manitoba og Winnipegosis-vötnin norðanverð. Kalkefni og grjót til húsagerðar er hvervetna með fram ofannefndum vötnum og víðar, sjerstaklega í Alberta, þar sem bæði efnisgóður og útlitsfagur rauðsteinn er fundinn í mörgum stöðum. Ágætur tígulsteinsleir er nærri alstaðar á sljettlendinu og í stöku stöðum leir sá, er leirílát eru gerð af, svo sem mjólkurbakkar, smjörkollur, brúsar og því um líkt. Eitt slíkt leirkera-verkstæði er til í Vestur-Canada, þó í smáum stíl sje, í East Selkirk, Manitoba. Steinolíu-æðar hafa fundizt á sljettlendinu, í grend við Dauphin-vatn í Manitoba, í Hrafnhreiðursskarði (Crows Nest Pass) í Klettafjöllunum og austur af því, og í Athabasca-hjeraðinu (norður af Alberta), sem enn er að miklu leyti ókannað. Í tveimur síðastnefndum stöðum er olían sögð svo hrein í sumum lindunum, að það má brenna henni óhreinsaðri. Saltnámur eru fundnar í tveimur stöðum, önnur á milli Winnipeg og Manitoba-vatna norðarlega, og var þar hreinsað og hagnýtt sem verzlunarvara á fyrri árum, á meðan Hudsonflóa-fjelagið rjeði lögum og lofum og enginn innflutningur var byrjaður. Hin önnur saltnáman, sem menn vita af nú, er í Athabasca-hjeraðinu. Eru þar að sögn hreinir salt-hólar og saltið sumstaðar svo hreint, að það er brúkað óhreinsað, eins og það er höggvið í stykkjum úr berginu.

En svo eru málmlöndin miklu til beggja handa, British Columbia, með sitt takmarkalausa málmasafn, að vestan, og hálendið grýtta umhverfis Superior-vatn, og vestur frá því meir en 400 mílur, að austan. Í þessum málm-hjeruðum báðum er og fáanlegt miklu meira timbur en það, er allt sljettusvæðið útheimtir til húsagerðar, verkfærasmíða o. s. frv. um marga ókomna áratugi. Hvað skóga- og málmtegundir snertir, er sljettlendið

því hvergi nærri illa sett, þar hvergi er lengra til þeirra að sækja en 500 mílur í mesta lagi, en það er minna en eins sólarhringsferð með járnbraut.

Sjerstaka auðsuppsprettu má og með rjettu kalla hinar fjölmörgu og verðmiklu tegundir af fiski í öllum vötnum og ám í Vestur-Canada. Er svo til talið, að í fiskivötnunum helztu í Vestur-Canada ætti fiskiveiðin ein að geta verið stöðugur atvinnuvegur, árið um kring fyrir 15,000 fiskimenn, og markaður fyrir þann fisk er takmarkalaus. Öll vesturríki Bandaríkja eru fiskivatnalaus, og verða því íbúar þeirra að kaupa fiskinn að, af Vestur-Canadamönnum. Sú verzlun er nú þegar byrjuð, og það í all-stórum stíl, þrátt fyrir höptin, er hinn hái tollur Bandaríkjastjórnar leggur á aðfluttan fisk, eins og allar aðrar varningstegundir.

En á engum af ofangreindum efnum byggja Vestur-Canadamenn, sem sljettlendið byggja, framtíðarvonir sínar. *Akuryrkja og kvikfjárrækt* — það eru og verða um öll ókomin ár aðal-atvinnuvegir allra sljettubúanna. Til þess er sljettlendið sjerstaklega útbúið. Það er enn minnst sjeð af því, sem gera má í því efni, og er þó búið að gera mikið á þeim stutta tíma, sem járnbrautir hafa gert kornrækt mögulega; án þeirra er sem sje ómögulegt að stunda þá atvinnu, nema lítillega til eigin þarfa, í jafn víðáttumiklum landgeim og hjer er um að ræða. Það eru liðin 10 ár síðan járnbrautir gerðu kornrækt mögulega í Manitoba, en ekki nema 6 ár síðan þær gerðu hana mögulega í hjeruðunum vestur frá Manitoba, og það ekki nema á tiltölulega litilli spildu, og þar sem landið var víða illa fallið til kornræktar. Það var fyrst fyrir ári síðan, að járnbrautir í vesturhjeruðunum náðu til hinna löngu viðurkenndu hveiti-hjeraða í Saskatchewan-dalnum. Eigi að síður hefir kornuppskeran (allar korntegundir samanlagðar) á Vestur-Canada-sljettunni alt að því tuttug-faldazt á síðasta áratug. Haustið 1881 var kornuppskeran samtals um 3 milj., en síðastl. haust (1891) var hún samtals um 60 milj. bushels; nákvæmar tölur eru enn ekki til, þar mikið af hveiti er enn óþreskt. Kvikfjáreignin hefur og aukizt stórmikið á sama tímabili (hefur um það tvöfaldazt á síðastl. 5 árum), en hvergi nærri að sama skapi og kornræktin. Að undanteknum þeim í Alberta, hafa allir innflytjendur á sljettlendið streyzt við að plægja sem flestar ekrur[1] af landi og sá hveiti í þær, sem ekki er undarlegt, því ágóði af hveitiræktinni, þegar vel lætur í ári, er ginnandi. Af þessu leiddi, að kvikfjárræktin varð út undan fyrst um sinn, og er það enn hjá mörgum. Þó er sú skoðun nú meir og meir að ryðja sjer til rúms, að kvikfjárræktin sje í sjálfu sjer arðsamur atvinnuvegur. Menn eru og æ betur og betur að sjá það, að sá bóndi, sem hefur góðan kvikfjárstofn, stendur jafnrjettur þó uppskerubrestur verði eitthvert árið, en það gerir ekki sá bóndi, sem eingöngu treystir á hveiti-uppskeruna. Þrátt fyrir þetta hefur kvikfjáreignin um það tvöfaldazt á síðastl. 5 árum, eins og áður hefur verið getið um. Skýrslur yfir kvikfjáreignina síðastl. ár eru enn ekki útkomnar nema í molum, og því verður ekki ákveðin tala gefin. En eptir því sem næst verður komizt, var öll tala kvikfjenaðar á sljettlendinu sumarið 1891 rjett um, eða máske rúmlega, ein miljón, og af þeirri upphæð eru fyllilega $\frac{2}{3}$ hlutar nautpeningur. Af sauðfjenaði og svínum er fæst, og eru þó sauðir og svín tiltölulega verðmeiri eign en nokkur önnur tegund búpenings, og framfærsla þeirra engu kostnaðarsamari en framfærsla nautpenings eða hesta.

Fullgerðar járnbrautir á sljettusvæðinu hafa á sama áratugnum aukizt um 2,800 mílur; voru fullar 3,000 mílur haustið 1891, en samtals 150 mílur haustið 1881.

Flatarmál þess hluta sljettlendisins, sem sannað er, að er jafn-frjósamt og jafnbyggilegt, er meira en $1\frac{1}{2}$ milj. ferhyrningsmílur, en vegna fjarlægðar og samgönguleysis er enn ekki mögulegt að taka fyrir meira en tæpan fjórðung þessa svæðis til landnáms og notkunar. Þessi fjórði hluti innilykur þessi 4 fylki: Manitoba, Assiniboia, Alberta, Saskatchewan, og er samlagt flatarmál þeirra sem næst 380,000 ferh. mílur.

**Manitoba-fylki** er suðaustasta hjeraðið á fyrgreindu sljettlendi og gekk í fylkjasambandið í Canada 1. júlí 1870. Stærð þess er að flatarmáli 73,956 ferhyrningsmílur,

1) Ekra af landi er 209 fet á hvern veg, eða nærri 35 faðmar.

en þar af eru 9,890 ferh.mílur í vatni, þ. e., í stöðuvötnum innan fylkisins. Íbúatal þess er um 160,000 (var 154,442 í apríl 1891) og eru íbúarnir flestir í suður og vesturhluta þess, af því landið er þar hátt og þurt og ýmist skóglítið eða skóglaust. Í norður og austurhluta þess er landið lægra og mýrkenndara, og víða allvel skógivaxið; í þeim hlutanum eru og öll hin stærri stöðuvötn í fylkinu. En þar sem allir innflytjendur hafa til þessa hugsað um kornrækt fremur öllu öðru, hafa þeir eðlilega gengið fram hjá mýrkennda og skógivaxna landinu, þó jarðvegurinn sje þar eins frjósamur og miklu endingarbetri en á há-sljettunni.

Það leiðir af sjálfu sjer, að þar sem Manitoba er austast af sljettuhjeruðunum og þarafleiðandi næst hinum eldri byggðum landsins, þá er það lengst á veg komið, bæði í efnalegu tilliti og hvað fólksfjölda snertir. Þar komu fyrst járnbrautir, og þær eru undanfarar allra annara framfara í jafn-víðáttu miklu landi og Ameríka er. Járnbraut var fyrst fullgerð til Winnipeg og járnbrautarsamband fengið við útheiminn árið 1880. Haustið 1881 voru fullgerðar 150 mílur af járnbrautum í Manitoba, en haustið 1891 var mílnatal fullgerðra járnbrauta í fylkinu orðið um 1,520 mílur. Sumarið 1881 voru í fylkinu ræktuð um 2 milj. bushels af kornmat, en sumarið 1891 43 til 45 milj. bush. Aðrar framfarir hafa verið að sama skapi.

**Assiniboia-hjeraðið** liggur næst Manitoba og er stærð þess um 95,000 ferhyrningsmílur. Í heild sinni er hjeraðið hálendara en Manitoba, og með köflum al-öldumyndað. Skógarbelti eru stráð um sljettuna nærri hvervetna, en fleiri og stærri eru þau í norður og norðausturhlutanum heldur en í suður- og suðvestur- partinum. Nálægt miðju hjeraðinu liggja Missouri-hæðirnar yfir það þvert frá norðri til suðurs. Allur vestri helmingur þess er betur fallin til kvikfjárræktar en akuryrkju, vegna all-mikilla hæðaklasa, er gera akuryrkju örðugri viðfangs en á sljettunni. Eins og í Alberta gengur fjenaður — nautpeningur, hestar og sauðfje — að mestu sjálfala á vetrum í vestur- Assiniboia. Þó þykir hjarðmönnum ætíð vissara að eiga nokkuð af heyi, enda nóg engi hvervetna í dölunum og á sljettu flákunum milli hæðanna.

Austur- helmingur hjeraðsins er jafnvel fallinn til hvorttveggja, akuryrkju og kvikfjárræktar, og á það þó einkum heima að því er snertir allan norðaustur fjórðung hjeraðaðsins, þar sem landið er skógivaxnara og tjarnir og smá stöðuvötn mörg. Suðausturfjórðungur hjeraðsins aptur á móti er sjerstaklega vel fallinn fyrir akuryrkju, alt frá Qu'Appelle-á suður á landamæri og vestur að Missouri-hæðum. Alt það svæði er framhald af hásljettunum miklu í suðvestur- Manitoba, og hið ákjósanlegasta land fyrir kornrækt. Í suðaustur- horninu á hjeraðinu er all-mikið kolabelti, framhald af því í norðvestur horninu á Manitoba-fylki. Kolatekjan byrjar þar á yfirstandandi ári.

Höfuðstaður hjeraðsins er Regina (íbúar um 2,000), og er nokkru austar en í því miðju frá austri til vesturs, en jafnlangt er frá þorpinu bæði suður og norður að landamærum hjeraðsins. Sem stendur er Regina höfuðstaður allra (þriggja) hjeraðanna, Assiniboia, Alberta, og Saskatchewan, sem enn eru of mannfá til að ganga í fylkjasambandið með fullkomnum rjettindum og skyldum. Þessi 3 hjeruð hafa nefnilega eitt sameiginlegt þing, er kemur saman einu sinni á ári í Regina. Þar situr og hjeraðsstjórinn (Governor) og er hann ráðsmaður allra þriggja hjeraðanna jafnt.

**Alberta-hjeraðið** tekur við vestur af Assiniboia og liggur vestur á fjallshrygg austasta fjallgarðsins í Klettafjalla-klasanum, en þar er landamerkjalína Alberta og British Columbia. Stærð hjeraðsins er um 106,000 ferhyrningsmílur. Vesturjaðar þess er hrikalegur fjallabálkur, þakinn stórskógi upp undir efstu brúnir. Sú spilda er þó ekki mjög breið, en austan við fjallaræturnar tekur við belti af skógvöxnum hæðum og hálsum, frá 20 til 50 mílna breitt. Lætur því nærri, að einn fjórði af hjeraðinu sje fjall-lendi, en $\frac{3}{4}$ sljettlendi, meira og minna hæðótt og öldumyndað. Meginhluti suður- helmingsins af sljettlendinu er betur fallið til kvikfjárræktar en akuryrkju vegna hæða og dala, enda er þar mesta samsafn stórhjarða af kvikfjenaði í Canada. Alt það svæði, svo og vesturhlutinn af Assiniboia, er og viðurkennt eitt hið bezta hjarðland í Ameríku. Grasspretta bregzt

aldrei, og er grasið bæði mikið að vöxtum og kraptmikið, straumvötn af allri stærð eru nærri hvervetna í dalverpum og á lágsljettu flákunum og skógarbelti til að skýla hjörðinni fyrir hríðarbyl á vetri og hlífa henni fyrir sólarhita á sumri. Alt þetta er samfara í Alberta, en á einhverju þessu er skortur í flestum öðrum nafntoguðum hjarðlöndum í Ameríku.

Norðurhelmingur sljettlendisins er láglendari en suðurparturinn, en þó talsvert öldumyndaður, með allmiklum skógarbeltum með stuttu millibili. Þar er og gnægð af mýrkenndum lágsljettuflákum og tjörnum og stöðuvötnum á ýmsri stærð. Er því þessi hluti hjeraðsins engu síður fallinn til akuryrkju en kvikfjárræktar. Norðarlega í hjeraðinu fellur hið mikla Saskatchewan-fljót austur um landið frá Klettafjöllum til Winnipeg-vatns og í það norðarlega. Sljettlendið með fram fljótinu á báðar síður er kallar Saskatchewan-dalur, og er sá dalur löngu síðan nafnkunnur fyrir frábæra frjósemi jarðvegsins.

Atvinnuvegir verða með tímanum fjölbreyttari í Alberta, en í nokkru hinna sljettlendisfylkjanna. Auk þess sem meginhluti hjeraðsins er ígildi hinna hvað frjósemi jarðvegsins snertir, eru þar stórskógar, kola- og aðrar námur í stórum stíl, eins og annarsstaðar er getið um.

Höfuðstaður hjeraðsins og mannflestur bær í hjeraðinu er Calgary (íbúar um 4,000), um 70 mílur austur frá Klettafjöllunum og 840 mílur vestur frá Winnipeg í Manitoba.

**Saskatchewan-hjeraðið** liggur norður af Assiniboia og er stærð þess um 107,000 ferhyrningsmílur. Landamæri þess eru: að sunnan Assiniboia og á litlu svæði austast Manitoba, að austan Winnipeg-vatn og Nelson-fljótið norður þaðan, að vestan Alberta, og að norðan 55. stig norðurbreiddar. Hjeraðið er í heild sinni láglendara en Alberta og jafnvel láglendara en meginhluti Assiniboia-hjeraðsins; er í því efni líkast austurhelmingnum af Manitoba, en auðskilið er af því, að Saskatchewan-dalurinn mikli liggur eptir miðju hjeraðinu endilöngu, frá austri til vesturs. Landið er jafnvel fallið til hvors er vera vill, akuryrkju eða kvikfjárræktar. Jarðvegurinn er frábærlega frjósamur, smá ár og vötn eru nærri að segja á hverri ferhyrningsmílu, og skógur er meiri í þessu hjeraði en í nokkrum hinna á sljettlendinu. Fyrir norðan fljótin, sumstaðar strax á bakkanum og sumstaðar í fárra mílna fjarlægð, tekur við stórskógarbelti, er liggur lítt slitið svo hundruðum mílna skiptir norður í land. Í miðju hjeraði koma saman í eitt Suður- og Norður-Saskatchewan-árnar, er þar mynda Saskatchewanfljótið. Norður-áin kemur vestan úr Klettafjöllum og er skipgeng til Edmonton í Alberta, en Suður-áin hefur upptök sín í suðaustur- Alberta, fellur um það hjerað um stund og um þvert Assiniboia-hjerað, frá norðri til suðurs. Vegna grynninga hjer og þar getur Suður-áin ekki heitið skipgeng nema í votviðra tíð og þá ekki nema tiltölulega stutta leið.

Höfuðstaður hjeraðsins er Prince Albert (íbúar um 1,100), og er ágætlega settur, í hjeraðinu miðju og á oddanum milli Norður- og Suður-ánna. Þorp þetta er 500 mílur norðvestur frá Winnipeg.

Þá eru upptalin þau 4 fylki á Vestur-Canada sljettunni, sem nú eru aðgengileg fyrir innflytjendur. Eins og áður hefur verið vikið á, eru það járnbrautirnar, sem að miklu leyti ráða, með hvað miklum hraða þetta eða hitt hjeraðið byggist. Án þeirra er ómögulegt, að minnsta kosti ill-mögulegt, að nota þenna ógna-geim. Af því Manitoba er austast, komu járnbrautir þar fyrst og fjölguðu óðast í ýmsar áttir, og eptir þeim fylgdi landnemastraumurinn. Suðurhluti Assiniboia og Alberta hjeraðanna fengu járnbraut fyrst — aðal-braut Canada Kyrrahafsfjelagsins, — og jókst því byggðin smásaman út frá henni. Smámsaman þumlungaðist og Manitoba og Norðvesturjárnbrautin inn í norðausturhluta Assiniboiahjeraðsins, og strax elti straumur landnema hana og fór langt fram fyrir núverandi enda brautarinnar. Það var ekki fyrr en í ágúst 1891, að fullgerð var járnbraut norður um Alberta frá Calgary til Edmonton, og ekki fyrr en í janúar 1891 að járnbraut var fullgerð norður um Assiniboia og Saskatchewan frá Regina til Prince Albert. Af þessu leiðir að þessi hjeruð, einkum Saskatchewan, eru skammt á veg komin, en eptir horfunum ná þau sjer bráðlega á framfara rekspölinn. Innflutningur til hjeraðanna

grend við Edmonton og Prince Albert var orðinn töluverður í fyrra haust og varð í stórum stíl þangað í sumar (1892). Í þessum þremur hjeruðum eru sem stendur fullgerðar um 1,500 mílur af járnbrautum. Samlagt íbúatal þeirra er um 70,000 (var 66,799, er manntalið var tekið í apríl 1891). Alþýðuskólar í þessum hjeruðum eru samtals um 400, og eru skólalögin áþekk þeim í Manitoba, í aðal-atriðunum.

**Athabasca** heitir hjerað mikið, á sömu stærð og Alberta, er liggur norður af Alberta-hjeraðinu. Vegna fjarlægðar hefur lítil gangskör verið gerð til að kanna það til verulegs gagns, og því síður gerð tilraun til að leiða athygli landsmanna að því, á meðan hundruð þúsunda ferhyrningsmílur af ágætu landi eru nær. En eptir sögn allra þeirra, er um það hjerað hafa farið, og eptir sögn þeirra fáu hvítu manna, er þar hafast við, eru þar landskostir betri en í mörgum nærliggjandi hjeruðum. Þar eru og ógrynni af kolum og steinolíu í jörðu, auk ýmrsa málmtegunda, skógur yfir höfuð mikill, og stór stöðuvötn bæði innan takmarka þess og rjett í grend við það að norðan og sustan. Ár falla og margar um það hjerað, en stærstar þeirra og merkastar eru Peace River, að sögn engu vatnsminni en Saskatchewan-fljótið, er fellur um hjeraðið frá horni til horns, frá suðvestri til norðausturs, og í Athabasca-vatn á austurtakmörkum hjeraðsins. Hin önnur stór-áin er Athabasca River, er fellur um suðausturhluta hjeraðsins og eptir austurlandamærunum norður í Athabasca-vatn. Loptslagið er sagt alveg það sama í Athabasca eins og í Alberta, og er því hjeraðið ekki fráfælandi fyrir þá sök.

**Loptslagið** á Vestur-Canada sljettunum er flestum Íslendingum orðið meira og minna kunnugt af afspurn. Sumrin eru heit og vetrarnir kaldir, og á vetrum stígur frostið nokkuð hærra en á Íslandi, en meginlandsloptið þura og ljetta og hið sífelda sólskin gerir það að verkum, að mismunurinn er hvergi nærri eins tilfinnanlegur eins og menn, sem uppaldir eru í eyjalopti, ímynda sjer. Frostin eru mest í Rauðárdalnum, en fara minnkandi eptir því sem vestar dregur, nær Klettafjöllunum og Kyrrahafinu. Hlákur eru sjaldgæfar í Rauðárdalnum um miðsvetrar leytið, en eru algengar í Alberta og vestur-Assiniboia. Sama á sjer stað í hjeruðum mörg hundruð mílur norðar en Winnipeg, eptir að komið er vestur undir Klettafjöll, að þar eru frostin ekki meiri nje langvinnari en í Alberta, er stafar af því, að þar eru fjöllin orðin svo lág og dalirnir gegnum þau margir og breiðir, að hitastraumarnir berast yfir þau tálmanalaust. Í Rauðárdalnum gengur vetur venjulega í garð um miðjan nóvember, en verulegar vetrarhörkur byrja sjaldan fyrr en um og eptir jól, en frá þeim tíma til febrúarloka má búast við að þær haldizt uppihaldslítið. Marzmánuður er venjulega stormasamur; skiptast á fannkomur og hlákur. Í apríl byrjar sáðtími almennt, stundum fyrr. Ís leysir ekki af ám fyrr en í apríl, og ekki eru hagar orðnir grænir fyrr en um miðjan maí.

Eini gallinn á þessu mikla sljettusvæði eru sumarfrostin — næturfrost einhverntíma á tímabilinu frá 1. til 20. ágúst — sem annan sprettinn gera vart við sig hjer og þar um alt sljettlendið, svo að eitt byggðarlag er aldrei ugglaust, þó það sleppi það og það árið, en önnur umhverfis bíði tjón. En einmitt á þessu tímabili er hveitið almennt að ná sínum fyllsta þroska, að harðna eins og það þarf áður en það verður slegið, og einmitt á því tímabili er það viðkvæmast; hvort heldur er of-kuldi eða of-hiti þá, skemmir útlit þess, og það fellur í verði og getur orðið ónýtt. Skaðinn, sem af þessu leiðir er mikill, en mjög tilfinnanlegur er hann ekki fyrir þann bónda, er stundar kvikfjárrækt jafnframt kornyrkjunni, og yfir höfuð að tala er skaðinn, sem frostið veldur, ekki meiri en sá skaði, er bændur í heitari löndum bíða á hverju ári af völdum fellibylja, er leggja stöngina flata, og af völdum hitavindanna, er skrælþurka kornið á stönginni áður en það nær fullum þroska. Sú skoðun er líka almennt ríkjandi, að sumarfrostin smáhverfi, öldungis eins og hefur átt sjer stað í vestur-Ontario, og innan Bandaríkja í Illinois, Iowa og öðrum ríkjum. Þar hefur reynslan sýnt, að eptir því sem byggðin þjettist, meiri og meiri víðátta var plægð og ræktuð, og meira og meira af votlendi var skorið fram og þurkað, eptir því leið æ lengra og lengra á milli sumarfrostanna og að lokum hurfu þau algerlega. Af þessu er ráðið að reynslan í Vestur-Canada sýni það sama.

# Íslendinga-byggðir.

Að frádregnum byggðum Íslendinga í bæjunum, Winnipeg, Selkirk og Brandon í Manitoba, Calgary í Alberta, o. fl., eiga þeir nýlendur í öllum fyrgreindum fylkjum, nema Saskatchewan. Þar eiga þeir enga nýlendu enn. Í Manitoba eru þær þrjár, og fjórða í myndun. Í Assiniboia tvær, og í Alberta ein.

Afstaða nýlendnanna og fjarlægð frá Winnipeg er þessi: Suður-landamæri *Nýja Íslands* eru eptir beinni línu um 40 mílur heldur austar en í hánorður frá Winnipeg. Sjálf er nýlendan um 40 mílur á lengd og tilheyrir henni að auki Mikley (í Winnipeg-vatni), 13 mílna löng og 4—6 mílur á breidd, og liggur 2—4 mílur undan meginlandi nýlendunnar í norðaustur. Suðaustur landamæri *Álptavatns-nýlendunnar* eru í beinni línu um 60 mílur norðvestur frá Winnipeg, en nýlendan er 10—12 mílur á lengd, frá norðri til suðurs, og liggur 6—12 mílur austur frá Manitoba-vatni. Austurtakmörk *Argyle-nýlendunnar* eru í beinni línu rúmlega 90 mílur suðvestur frá Winnipeg. Nýlendan sjálf er 18—20 mílur á lengd, frá austri til vesturs, og breidd hennar, frá norðri til suðurs, er 6—10 mílur. Nýlendan fjórða í Manitoba, er nú er verið að stofna, *Melita-nýlendan*, liggur nálægt vesturtakmörkum fylkisins og um 90 mílur beint í vestur frá Argyle-nýlendunni.

Assiniboia nýlendurnar eru: *Þingvalla-nýlendan*, er liggur meðfram Manitoba og Norðvestur-járnbrautinni, 6—10 mílur vestur frá landamærum Manitoba-fylkis, og um 260 mílur norðvestur frá Winnipeg, og *Qu'Appelle-nýlendan*, er liggur á norðurbrún Qu'Appelle-dalsins og um 30 mílur beint í suður frá Þingvalla-nýlendunni.

Alberta-nýlendan, venjulega nefnd *Red Deer-nýlendan*, er í Red Deer-dalnum, örskamt vestur frá Calgary og Edmonton-járnbrautinni, um 70 mílur norður frá Calgary, um 80 mílur austur frá Klettafjöllunum og um 910 mílur vest-norðvestur frá Winnipeg, eptir járnbrautarlengd þangað að dæma.

Um landslagið í hinum ýmsu nýlendum, eða um landskosti hverrar einnar fyrir sig, þýðir ekki að tala. Búnaðarskýrslur þær er hjer fara á eptir skýra og að vissu leyti það atriðið, er snertir landskostina. Nýja Ísland er eina nýlendan, sem ekki er rjettlátt að dæma frá sama sjónarmiði og hinar nýlendurnar. Þó sú nýlenda sje að nafninu til lang-elzt allra nýlendnanna, þá er að athuga það, að fyrir burtflutning var hún nærri mannlaus orðin fyrir 10 árum síðan, og, að innflutningur þangað í annað sinn byrjaði ekki fyrir alvöru fyrri en 1884. Annað athugunarvert er það, að nýlendan er öll skógi vaxin, og alt landsvæðið í grend við hana að sunnan og vestan annaðtveggja skógi vaxið eða mýrlent, og að nýlendan liggur á bakka ágætasta fiskivatns. Af því leiðir, að nýlendumenn gefa sig meir við fisktekju en landbúnaði, sem er svo miklum örðugleikum undirorpinn í skóginum og vegleysinu, sem skóginum er æfinlega samfara. Hið þriðja athugaverða atriði er það, að til Nýja Íslands hafa að jafnaði flutt fátækustu mennirnir af Íslandi. Þeir hafa flúið þangað í vændræðunum, vegna fiskinægtanna í vatninu og húsa- og eldiviðar nægtanna í skóginum. Hinar nýlendurnar allar eru að heita má skóglausar, og þar af leiðandi er þar fljótteknari gróði, svo framarlega sem landneminn hefur uxa og plóg til að byrja með. Í þeim eru heldur ekki fiskivötn til að glepja frumbýlinginn frá vinnu á akrinum.

# I. SKÝRSLA fr

í Manitoba, 5., 6., 7. og 8. hv

| | Nöfn landnema | Síðasta heimili á Íslandi | Heimkynni | Reitur | Hverfi | Röð | Núverandi póststöðvar heimili | | Landnámsár |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. | Eyjólfur Snædal | Hjarðarhaga, Jökuldal | NA ¼<br>SA ¼ | 25.<br>2. | 5.<br>6. | 14<br>14 | Grund | PO | 81 |
| 2. | Bjarni Jónasson | Laxamýri, Þingeyjarsýslu | NV ¼ | 19. | 6. | 13 | Glenboro | — | 89 |
| 3. | Andrjes Andrjesson | Sigurðarstöðum, Bárðardal | NV ¼ | 8. | 6. | 13 | Grund | — | 89 |
| 4. | Björn Andrjesson | Bakka, Tjörnesi, Þingeyjars. | NA ¼<br>SA ¼ | 8.<br>18. | 6.<br>6. | 13<br>13 | — | — | 83 |
| 5. | Helgi Thorsteinsson | Dagverðargerði, Norðurmúlas. | NV ¼<br>NA ¼ | 1.<br>2. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 82 |
| 6. | Guðmundur Símonarson | Heiði, Gönguskörð., Skagafj.s. | SA ¼ | 30. | 6. | 13 | Brú | — | 89 |
| 7. | Jóhann G. Jónasson | Kelduneskoti, Þingeyjarsýslu | SA ¼ | 11. | 6. | 14 | Grund | — | 88 |
| 8. | Kristján Jónsson | Hjeðinshöfða við Húsavík | ½SV ¼<br>SV ¼ | 13.<br>12. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 83 |
| 9. | Ólafur Jónsson | Kúðá í Þistilfirði | NA ¼ | 16. | 8. | 13 | Glenboro | — | 91 |
| 10. | Baldvin Benediktsson | Hjarðarhaga, Jökuldal | NV ¼<br>SV ¼ | 2.<br>2. | 6.<br>6. | 14<br>14 | Grund | — | 82 |
| 11. | Einar Sigvaldason | Þórustöðum, Svalbarðsstr. Eyjf. | NV ¼ | 25. | 5. | 14 | — | — | 91 |
| 12. | Stefán Stefánsson | Rauðanesi, Mýrasýslu | SV ¼ | 6. | 6. | 13 | — | — | 86 |
| 13. | Baldvin Sigurðsson | Glaumbæjarseli, Þingeyjars. | NV ¼ | 25. | 6. | 14 | — | — | 86 |
| 14. | Halldór G. Jónsson | Hjeðinshöfða við Húsavík | ½SV ¼<br>NV ¼ | 13.<br>12. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 88 |
| 15. | Hjörtur Sigurðsson | Mjóadal, Bárðard., Þingeyjars. | NA ¼<br>NA ¼ | 31.<br>36. | 5.<br>5. | 13<br>14 | Baldur | — | 83 |
| 16. | Jón Jóhannesson | Borgargerði, Þingeyjarsýslu | NA ¼ | 36. | 5. | 14 | — | — | 84 |
| 17. | Björn Björnsson | Meðalheimi, Svalbarðsströnd | NV ¼ | 30. | 5. | 13 | — | — | 90 |
| 18. | Bjarni Helgason | Brúnahvammi, Vopnafirði | NA ¼ | 24. | 5. | 13 | — | — | 90 |
| 19. | Sigmundur Bárðarson | Rauðanesi, Mýrasýslu | SA ¼ | 6. | 6. | 13 | — | — | 88 |
| 20. | Jóel Jósepsson | Skörðum, Miðdölum, Dalasýslu | NA ¼ | 26. | 6. | 14 | — | — | 89 |
| 21. | Kristján Árnason | Hólsgerði, Köldukinn, Þingeyjs. | SA ¼<br>SA ¼ | 3.<br>34. | 6.<br>5. | 14<br>14 | Grund | — | 86 |
| 22. | Sigurður Antoníusson | Gilsárstekk, Breiðdal, Suðurm. | SV ¼<br>NV ¼ | 27.<br>22. | 5.<br>5. | 14<br>14 | — | — | 85 |
| 23. | Jóhann Jónsson | Eyrarlandi? Eyjafirði | NV ¼<br>NV ¼<br>NA ¼ | 32.<br>21.<br>20. | 5.<br>5.<br>6. | 14<br>14<br>14 | — | — | 84 |
| 24. | Kristján Ólafsson | Hjalla, Reykjadal, Þingeyjars. | ½NA ¼<br>SA ¼ | 17.<br>20. | 5.<br>5. | 14<br>14 | — | — | 86 |
| 25. | Kristján J. Dalmann | Dal, Miklholtshr., Snæfellsn.s. | NA ¼<br>SV ¼ | 17.<br>20. | 5.<br>5. | 14<br>14 | Baldur | — | 85 |
| 26. | Sæmundur Friðriksson | Eyrarbakka, Árnessýslu | NV ¼ | 20. | 5. | 14 | — | — | 85 |
| 27. | Jóhannes Sigurðsson | Hróðnýarstöð., Laxárd., Dalas. | N ½ | 23. | 5. | 14 | — | — | 90 |
| 28. | Friðsteinn Sigurðsson | Harðbak, Sljettu, Þingeyjars. | SV ¼ | 33. | 5. | 14 | Grund | — | 91 |
| 29. | Þórður Þorsteinsson | Gilsárstekk, Suðurmúlasýslu | NV ¼<br>SV ¼ | 27.<br>34. | 5.<br>5. | 14<br>14 | — | — | 86 |
| 30. | Hósías Jósephsson | Vestaralandi, Axarfirði, Þinge.s. | V ½ | 28. | 5. | 14 | — | — | 82 |
| 31. | Sveinn Björgólfsson | Gilsárstekk, Suðurmúlasýslu | SV ¼ | 34. | 5. | 13 | Brú | — | 88 |
| 32. | Guðjón Jónsson | Gilsá, Suðurmúlasýslu | SA ¼ | 34. | 5. | 13 | — | — | 88 |
| 33. | Jóhannes Sigurðsson | Laxamýri, Þingeyjarsýslu | NA ¼ | 12. | 6. | 14 | — | — | 82 |
| 34. | Bæring Hallgrímsson | Reykjum, Fnjóskadal, Þingey.s. | SV ¼ | 15. | 6. | 14 | Grund | — | 90 |
| 35. | Jón Þórðarson | Þorsteinsstöðum, Dalasýslu | NA ¼ | 30. | 6. | 14 | Glenboro | — | 84 |
| 36. | Þorsteinn Antoníusson | Þiljuvöllum, Berufirði | N ½<br>SA ¼ | 35.<br>2. | 5.<br>6. | 14<br>15 | Bellmont | — | 85 |

# rgyle-nýlendu

### og 1[illegible] röð vestur frá 1. hádegisbaug.

| Landnámsár | Akuryrkja: Undir hveiti | Undir höfrum | Undir byggi | Undir rúgi o.s.f. | Garðáv. | Kvikfjárrækt: Kýr | Uxar | Ungneyti | Nautpen alls | Hestar | Sauðfje | Svín | Alifuglar | Verð landeignar & húsa doll. | Verð jarðyrkjutóla doll. | Stofnfje doll. | Núverandi skuldir doll. | Eigur alls doll. | Skuldlausar eigur doll. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 81 | 60 | 20 | » | » | ½ | 4 | » | 7 | 11 | 4 | 12 | 4 | 20 | 2000 | 552 | 200 | 1000 | 3965 | 2965 |
| 89 | 30 | » | » | » | ½ | 2 | » | 3 | 5 | » | » | » | » | 1500 | » | » | 450 | 1900 | 1450 |
| 89 | 35 | » | » | » | ½ | 1 | 2 | 1 | 4 | » | » | 2 | 30 | 1400 | 30 | » | 500 | 1600 | 1100 |
| 83 | 70 | 23 | » | » | ½ | » | » | » | » | 4 | » | 4 | 40 | 4000 | 400 | 100 | 1000 | 6765 | 5765 |
| 82 | 100 | 12 | » | » | ½ | 5 | 2 | 13 | 20 | 5 | » | 5 | 30 | 3000 | 600 | 375 | 2000 | 5275 | 3275 |
| 89 | 120 | 20 | 5 | » | ½ | 3 | 2 | 6 | 11 | 7 | » | 13 | 20 | 3500 | 2380 | 1000 | 2000 | 8150 | 6150 |
| 88 | 10 | » | » | » | ½ | 4 | 3 | 6 | 13 | » | » | » | 12 | 300 | 140 | 500 | » | 885 | 885 |
| 83 | 100 | 25 | » | » | ½ | 8 | » | 8 | 16 | 8 | 8 | 9 | 20 | 2500 | 620 | 150 | » | 6580 | 6580 |
| 91 | » | » | » | » | » | 4 | 2 | 4 | 10 | » | 37 | » | 20 | 800 | » | 500 | 100 | 1300 | 1200 |
| 82 | 58 | 7 | » | » | ½ | 7 | 2 | 12 | 21 | 2 | 2 | 9 | 20 | 4000 | 500 | 130 | 1000 | 5755 | 4755 |
| 91 | 30 | » | » | » | » | » | 2 | » | 2 | » | » | » | » | 2000 | 67 | 200 | 700 | 2192 | 1492 |
| 86 | 15 | » | » | » | ½ | 4 | 3 | 5 | 12 | » | 2 | 2 | 5 | 800 | 107 | » | 40 | 1490 | 1450 |
| 86 | » | » | » | » | » | 1 | 1 | » | 2 | 1 | » | » | » | 1000 | » | » | 800 | 2630 | 1830 |
| 88 | 98 | 17 | » | » | ½ | 4 | 2 | 5 | 11 | 2 | 4 | 6 | 30 | 2400 | 380 | 200 | 1685 | 5155 | 3470 |
| 83 | 32 | 9 | 2 | » | ½ | 5 | » | 8 | 13 | 6 | » | 1 | 20 | 2500 | 335 | 50 | 1000 | 3750 | 2750 |
| 84 | 25 | » | » | » | ½ | 6 | 2 | 5 | 13 | » | 2 | 1 | 20 | 1500 | 160 | » | 300 | 2260 | 1960 |
| 90 | 3 | » | » | » | ½ | 3 | 2 | 2 | 7 | » | 2 | 1 | 15 | 600 | » | » | 100 | 860 | 760 |
| 90 | 6 | » | » | » | ½ | 4 | 2 | 5 | 11 | » | » | » | 20 | 1000 | 27 | 100 | » | 1422 | 1422 |
| 88 | 9 | » | » | » | ½ | 4 | 2 | 2 | 8 | » | » | 2 | 5 | 800 | 27 | » | 30 | 1275 | 1245 |
| 89 | 15 | » | » | » | ½ | 3 | 2 | 3 | 8 | » | » | 2 | 4 | 1000 | 87 | 35 | 87 | 1667 | 1580 |
| 86 | 40 | 10 | » | » | ½ | 3 | 4 | 7 | 14 | 1 | » | 2 | 8 | 2500 | 594 | 50 | 1200 | 5336 | 4136 |
| 85 | 40 | 7 | » | » | ½ | 3 | 2 | 3 | 8 | 2 | » | 3 | 30 | 2500 | 400 | 35 | 800 | 4110 | 3310 |
| 84 | 60 | 10 | 5 | » | ½ | 7 | 1 | 11 | 19 | 7 | 26 | » | 50 | 4000 | 550 | 800 | 400 | 6845 | 6445 |
| 86 | 36 | 8 | » | » | ½ | 6 | 4 | 10 | 20 | 3 | 16 | » | 30 | 2000 | 400 | 35 | 700 | 3300 | 2600 |
| 85 | 54 | 6 | » | » | ½ | 6 | 4 | 7 | 17 | 6 | 5 | 2 | 100 | 2000 | 402 | 56 | 200 | 3870 | 3670 |
| 85 | 48 | 13 | 1 | » | ½ | 4 | 2 | 8 | 14 | 6 | 8 | 2 | 30 | 1800 | 560 | 225 | 800 | 4030 | 3230 |
| 90 | 35 | » | » | » | » | 1 | 2 | 1 | 4 | » | » | » | » | 2800 | 82 | 200 | 1200 | 3630 | 2430 |
| 91 | » | » | » | » | » | 4 | 2 | 5 | 11 | » | » | » | 12 | 1500 | 27 | 350 | 700 | 1850 | 1150 |
| 86 | 50 | 10 | » | » | ½ | 3 | 2 | 10 | 15 | 4 | 4 | 3 | 30 | 2000 | 377 | 270 | 1400 | 3947 | 2547 |
| 82 | 39 | 6 | » | » | ½ | 2 | » | 4 | 6 | 5 | » | 4 | » | 2000 | » | » | 1115 | 3115 | 2000 |
| 88 | 18 | 3 | » | » | ½ | 5 | 2 | 5 | 12 | » | » | 3 | 20 | 800 | 225 | 600 | 500 | 1745 | 1245 |
| 88 | 30 | 1 | » | » | ½ | 4 | 3 | 6 | 13 | » | 4 | 3 | 30 | 1000 | 204 | 100 | 500 | 2024 | 1524 |
| 82 | 140 | 10 | » | » | ½ | 8 | 3 | 12 | 23 | 3 | » | » | 50 | 3500 | 430 | 50 | 500 | 7776 | 7276 |
| 90 | 30 | » | » | » | ½ | 2 | 2 | 3 | 7 | » | 1 | » | 2 | 2000 | 137 | 250 | 500 | 2717 | 2217 |
| 84 | 80 | 17 | 5 | » | ½ | 8 | » | 9 | 17 | 5 | 21 | 3 | 100 | 2000 | 837 | 50 | 840 | 5717 | 4877 |
| 85 | 100 | 28 | » | » | ½ | 5 | » | 20 | 25 | 5 | 3 | 10 | 35 | 2800 | 665 | 350 | 800 | 6186 | 5386 |

## I. Argyle-nýlenda. (Framh.).

| | Nöfn landnema | Síðasta heimili á Islandi | Heimkynni | Reitur | Hverfi | Röð | Núverandi póststöðvar heimili | | Landnámsár | [illegible] |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 37. | Jón Jónsson Frímann | Eyrarlandi, Eyjafirði | SA ¼<br>SV ¼ | 3.<br>2. | 6.<br>6. | 14<br>14 | Bellmont | PO | 87 | 0 |
| 38. | Halldór Magnússon | Helgafelli, Snæfellsnessýslu | ½SA ¼<br>NA ¼ | 20.<br>12. | 8.<br>6. | 13<br>13 | Grund | — | 85 | 5 |
| 39. | Halldór Valdason | Litlabæ, Álptaneshr., Mýrasýs. | NA ¼<br>SA ¼ | 28.<br>12. | 8.<br>6. | 13<br>15 | — | — | 85 | 0 |
| 40. | Jón Sveinbjörnsson | Kalastaðakoti, Borgarfjarðars. | SV ¼ | 12. | 6. | 15 | — | — | 89 | 0 |
| 41. | Kristján Jónsson Bárdal | Björgum, Köldukinn, Þingeyj.s. | SV ¼ | 10. | 6. | 15 | Bellmont | — | 86 | 0 |
| 42. | Þorkell Ólafsson | Steinkirkju, Fnjóskad., Þing.s. | SA ¼ | 14. | 6. | 15 | Grund | — | 84 | 3 |
| 43. | Hernit Christófersson | Ytri-Neslöndum, Mývatnssveit | NA ¼<br>NV ¼ | 1.<br>6. | 6.<br>6. | 15<br>14 | — | — | 84 | 0 |
| 44. | Benóní Guðmundsson | Borgarnesi, Mýrasýslu | SV ¼ | 6. | 6. | 14 | — | — | 88 | 6 |
| 45. | Árni Sveinsson | Fáskrúðsfirði, Suðurmúlasýslu | NA ¼<br>SA ¼<br>SA ¼ | 23.<br>27.<br>16. | 6.<br>6<br>6. | 14<br>14<br>14 | — | — | 83 | 5 |
| 46. | Jósep Davíðsson | Seyðisfirði, Norðurmúlasýslu | SA ¼ | 6. | 6. | 14 | — | — | 85 | 5 |
| 47. | Jón Jónsson | Gilsárstekk, Suðurmúlasýslu | NA ¼ | 6. | 6. | 14 | — | — | 85 | 8 |
| 48. | Magnús Teitsson & fjel. | Þingvöllum, Helgaf.s., Snæf.s. | NA ¼ | 9. | 6. | 15 | — | — | 91 | 0 |
| 49. | Jón Friðfinnsson | Þorvaldsstöðum, Breiðdal | | | | | Brú | — | 89 | » |
| 50. | Jónas Jóhannesson | Húsavík, Þingeyjarsýslu | SA ¼ | 27. | 6. | 15 | Grund | — | 91 | 0 |
| 51. | Björn Jónsson Borgfjörð | Reykjavík | SV ¼ | 23. | 5. | 14 | — | — | 88 | 0 |
| 52. | Jónas Jónsson | Steinsstöðum, Skagafirði | NA ¼<br>SA ¼ | 19.<br>30. | 5.<br>6. | 14<br>14 | Glenboro | — | 82 | 0 |
| 53. | Árni Sveinsson (Storm) | Gvendarstöðum, Vopnafirði | SV ¼<br>V ½ | 31.<br>6. | 6.<br>6. | 14<br>15 | — | — | 87 | 0 |
| 54. | Guðjón Sveinsson (Storm) | — — | SA ¼<br>SV ¼ | 31.<br>36. | 6.<br>6. | 15<br>15 | — | — | 87 | 0 |
| 55. | Guðrún Jónsdóttir (Storm) | — — | SA ¼ | 36. | 6. | 15 | — | — | 87 | 3 |
| 56. | Kristjana Kristjánsdóttir | Hallgilsstöð., Fnjóskad., Þing.s. | V ½ | 28. | 6. | 14 | — | — | 87 | 2 |
| 57. | Sigmar Sigurjónsson | Einarsstöð., Reykjad., Þing.s. | ½SV ¼<br>NA ¼<br>SA ¼ | 18.<br>21.<br>28. | 8.<br>6.<br>6. | 13<br>14<br>14 | — | — | 84 | 0 |
| 58. | Friðrik Jónsson | Akureyri | NA ¼ | 28. | 6. | 14 | — | — | 85 | 0 |
| 59. | Olgeir Friðriksson | — | NV ¼<br>SV ¼ | 22.<br>28. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 84 | 0 |
| 60. | Stefán Kristjánsson | Miðvatni, Skagafirði | SA ¼<br>SV ¼<br>V ½ | 27.<br>32.<br>30. | 6.<br>6.<br>6 | 14<br>14<br>14 | — | — | 86 | 70 |
| 61. | Rafn G. Nordal | Reykjavík | SA ¼<br>SV ¼ | 21.<br>22. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 84 | 0 |
| 62. | Friðbjörn Friðriksson | Akureyri | SV ¼<br>NA ¼ | 26.<br>22. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 84 | 0 |
| 63. | Ólifer Björnsson | Ketu, Skagafirði | NV ¼ | 30. | 6. | 14 | — | — | 87 | 0 |
| 64. | Arni Árnason | Skógum, Axarfirði | NA ¼ | 26. | 6. | 14 | — | — | 89 | 2 |
| 65. | Jón Goodman | Hjalthúsum, Þingeyjarsýslu | SV ¼ | 23. | 6. | 14 | — | — | 85 | 5 |
| 66. | Magnús Goodman | — — | ½NV ¼<br>SA ¼ | 25.<br>22. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 84 | 0 |
| 67. | Jóhann Jóhannsson | Ingjaldsstöðum, Þingeyjars. | SA ¼<br>½NA ¼<br>NV ¼ | 25.<br>15.<br>14. | 6.<br>6.<br>6. | 14<br>14<br>14 | — | — | 83 | 0 |
| 68. | Björn Andrjesson | Stokkhólmi, Skagafirði | ½NA ¼<br>S ½ | 25.<br>25. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 82 | 0 |
| 69. | Skapti Arason | Hringveri, Þingeyjarsýslu | NA ¼<br>NV ¼ | 30.<br>24. | 6.<br>6. | 14<br>14 | — | — | 81 | 2 |
| 70. | Guðný Aradóttir | — — | NA ¼ | 24. | 6. | 14 | — | — | 83 | 0 |

